Um
stöðu Ísl. í ríkinu
J. E. Larsen
Khöfn 1856

# UM

# STÖÐU ÍSLANDS Í RÍKINU AÐ LÖGUM

## EINS OG HÚN HEFUR VERIÐ HINGAÐ TIL

EPTIR

J. E. LARSEN.

---

GEFIÐ ÚT AÐ TILHLUTUN DÓMSMÁLASTJÓRNARINNAR.

---

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTAÐ HJÁ LOUIS KLEIN.

1856.

Þegar að Hans Hátign, hinn allramildasti konungur vor, kunngjörði þegnum sínum með auglýsingu 4. apríl 1848, að hann, sökum hinna alvörumiklu viðburða, er þá gjörðust, hefði ályktað að gjöra annað skipulag um stjórnartilhögun í konungsveldinu, en það sem fyrirhugað var í konungsbrjefinu 28. janúar 1848, var það álitið skýlaust, að Ísland og eins Færeyjar skyldu fá hlutdeild í hinni frjálsu stjórnarskipun, er ætluð var konungsríkinu og hertogadæmunum í sameiningu. En sökum þess að tíminn leyfði ekki að kveðja fulltrúa úr þessum fjarlægu löndum, á sama hátt og úr Danmörku, á ríkisþing það, er leggja skyldi fyrir frumvarp til stjórnarskipunarlaganna, var það ákveðið í kosningarlögunum 7. júlí 1848, er kosið var eptir til þessa ríkisþings, að meðal þeirra þingmanna, er konungur áskildi sjer að kjósa, mundi hann kjósa 5 fyrir Ísland af alþingismönnum, ef kostur væri á, og einn fyrir Færeyjar. Fulltrúar þeir, er þannig voru kvaddir fyrir hönd Íslands og Færeyja, tóku síðan þátt í aðgjörðum þingsins; en á þess þingi voru samin grundvallarlögin 5. júní 1849, og kosningarlögin, er þeim fylgðu.

En um haustið 1848 sendi stiptamtmaður á Íslandi ávarp til konungs, er samþykkt var af nokkrum mönnum,

er komu saman í Reykjavík; og fór það fram á, að Íslandi yrði gefinn kostur á að kjósa hæfilega marga fulltrúa, eptir jafnfrjálsum kosningarlögum og höfð voru í konungsríkinu, er gætu komið saman í landinu sjálfu til að ráðgast bæði um þau atriði í hinni fyrirhuguðu stjórnarlögun Danmerkur, sem beinlínis snertu Ísland, og um fyrirkomulag á hinni sjerstöku stjórn Íslands, áður en konungur rjeði því máli til lykta[1]. Konungur varð við bæn landsmanna, sem brjef hans 23. september 1848 vottar; þar segir: að þó að konungur, af ástæðum þeim, er brjefið skýrir frá, hafi orðið að láta Íslendinga fá hlutdeild þá, er þeir áttu að hafa að sínum hluta á ríkisþinginu, þegar ræða skyldi um stjórnarskipunina, á annan hátt en ákveðinn var fyrir hin dönsku hjeruð, þá væri það þó ekki tilgangur konungs, að gjört skyldi út um þau aðalatriði, er sökum hins sjerstaka ásigkomulags Ísland kynnu að vera nauðsynleg til að ákvarða stöðu þess í ríkinu, fyr en Íslendingar á sjerstöku þingi í landinu hefðu sagt álit sitt um þau, og að það, sem við þyrfti í þessu efni, mundi verða lagt fyrir næsta alþingi[2].

Eptir að alþingi hafði haft málið til meðferðar komu nú, samkvæmt þessu, út 28. september 1849 kosningarlög fyrir þing það á Íslandi, er heitið var í konungsbrjefinu 23. september 1848, og voru þau í öllum aðalatriðum hin sömu og kosningarlögin 7. júlí 1848[3], og eptir að kosningar höfðu farið fram, var þingið kallað saman með opnu brjefi 16. maí 1850,

---

[1]) Sbr.: *Departementstidenden* 1848, 689. bls., og þar á eptir.

[2]) Um frestun þessa máls sbr.: umræður á ríkisþinginu í tíðindum þess, II. 2729, o. s. frv. Sbr. einnig: kosningarlög 16. júní 1849, 18. og 37. gr.

[3]) Sbr. *Departementstidenden* 1849, 845. bls., og þar á eptir.

og skyldi þingið koma saman í Reykjavík 1. júlí 1851[1]. Fyrir þing þetta ljet stjórnin meðal annars leggja frumvarp til laga um stöðu Íslands í ríkinu og ríkisdagskosningar á Íslandi, og var aðalreglan í því, að grundvallarlög Danmerkurríkis skyldu fá lagagildi á Íslandi, með nákvæmari ákvörðunum, er gjörðar voru um, að hve miklu leyti 2. gr. þeirra skyldi fylgt. Þetta var nú einkum, að í þeim efnum, sem einungis snertu hið sjerstaka ástand Íslands, skyldi konungur og ríkisþingið ekki hafa löggjafarvald, heldur konungur með tilstyrk alþingis. Það átti að gjörast munur á hinum almenna ríkissjóð, með tekjum hans af Íslandi, og gjöldum þeim, er hann átti að greiða fyrir landið, og sjerstökum landssjóð, er stofna skyldi á Íslandi, með tekjum og útgjöldum út af fyrir sig. Ísland átti að kjósa á ríkisþingið, 4 fulltrúa á þjóðþingið og 2 á landsþingið, og þegar leggja skyldi frumvörp, er breyttu löggjöf Íslands, fyrir ríkisþingið, sökum þess að þau snertu hag alls ríkisins, mundi konungur, þegar því yrði við komið, bera það áður undir álit alþingis[2]).

Þessi velviljaða uppástunga stjórnarinnar, hafði eigi þann árangur er hún æskti. Það höfðu í all-langan tíma komið í ljós skoðanir og tilraunir hjá Íslendingum, er miðuðu í þjóðlega íslenzka stefnu, og þó að þær að nokkru leyti væru á sönnu byggðar, aflöguðust þær þó hjá mörgum Íslendingum, svo að úr þeim varð hinn mesti einstrengings-

---

[1]) Frá þingi þessu og athöfnum þess er skýrt í Tíðindum frá þjóðfundi Íslendinga árið 1851, Reykjavík 1851. Sbr. einnig: Blaðið „*Fædrelandet*“ 1851, Nr. 195., 201., 211., 212., 214, og þar á eptir.

[2]) Frumvarpið og ástæður fyrir því finnst í stjórnardeildatíðindum 1851, 716. bls. e. s. frv., og í Tíðindum frá þjóðfundinum 1851, 427. bls.

skapur og fjarski, er ekki gat orðið annað en íllsvaldandi á margan veg einkum fyrir Íslendinga sjálfa, og sem því stórum angraði hvern þann, sem ann Íslandi og innbúum þess, eins og höfundur þessara blaða. Þetta sýndi sig nú mjög ljóslega á þingi Íslendinga. Nefnd sú, er sett var til að ræða málið, samdi álitsskjal, er sumpart skýrði frá því, er nefndin áleit hinn opinbera rjett Íslands, og sumpart setti fram kröfur — um leið og hún gjörsamlega felldi frumvarp stjórnarinnar —, um skipulag á málefnum landsins, er allt án efa kom af töluvert rangri skoðun á rjettindum þeim, sem landið hefur í raun og veru, og myndast hafa í sögu landsins, og á því, hvað gjörlegt er og gagnlegt eptir fólkstölu landsins, fjárafla og öðru ásigkomulagi. Þetta nefndarálit kom nú reyndar ekki til umræðu á þinginu, þar eð konungsfulltrúa, stiptamtmanninum, þótti ástæða til að slíta þinginu; en seinna fjellst meiri hluti þingmanna á það í ávarpi til konungs. Afleiðing þessa var nú konungleg auglýsing til Íslendinga 12. maí 1852, er skaut á frest að skipa fyrir um fyrirkomulag Íslands í ríkinu fyrst um sinn. Hún birti Íslendingum: að konungi þyki mjög illa hafa til tekizt, að tilgangur sá, sem fundinum var stefnt saman í, samkvæmt konungsbrjefi 23. marz 1848, væri ónýttur með því, að bæði nefnd sú sem kosin var á fundinum, og eins flestallir fundarmenn, er í ofannefndu ávarpi hefðu fallizt á álitsskjal hennar hefðu látið í ljósi slíkt álit um samband Íslands við konungsríkið, sem bersýnilega væri gagnstætt stöðu landsins, eins og hún væri að rjettu lagi. Það hefði einkum verið farið fram á, að Ísland gæti krafizt, í öllum þeim málefnum, er snertu það eingöngu, ekki að eins að öðlast rjettindi, sem sjerstakur hluti ríkisins, eins og gjört var ráð fyrir í lagafrumvarpi því, er lagt var

fyrir fundinn, heldur einnig, að Ísland stæði jafnsíðis konungsríkinu, ætti rjett á að fá fulltrúaþing, er hefði sem mestan þátt, orðið gæti, í hinu æðsta stjórnarvaldi, og einkum hefði ótakmarkað vald til að ákveða skatta og útgjöld, að eiga æðsta dóm eitt sjer, og að það hefði ráðgjafa út af fyrir sig, er allir ættu að vera Íslendingar og hafa ábyrgð fyrir hinu íslenzka þjóðþingi. Aptur á móti væri að eins tekið fram, að Ísland skyldi hafa konung og konungserfðir saman við Danmörku, en að öðru leyti skyldi það komið undir samkomulagi, hver önnur málefni ættu að vera sameiginleg með Íslandi og Danmörku eða öðrum hlutum ríkisins, en eins og það væri hvorttveggja, að engin heimild væri fyrir kröfum þessum, eptir því sem staða Íslands nú væri, eins mundu þær á hinn boginn ekki verða Íslandi nema til óhamingju og leiða til að sundra hinu danska konungsveldi, er konungur gæti aldrei leyft“.

Eptir að jeg hefi nú drepið á þetta, skal jeg í því, er eptir kemur, nákvæmar skýra frá þeim hluta máls þessa, sem, hvernig sem á málið er litið, ætíð er í sjálfu sjer athugaverður, það er að skilja, hvernig hin almennu rjettindi Íslands hafa til orðið í sögunni frá þeim tíma að landið gekk undir vald Noregskonunga og til þessa tíma. En það er þó ekki tilgangur þessa stutta ritlings að reyna til að skýra gjörsamlega frá öllu ástandi þessa máls, og hvernig það hefur myndast í straumi tímanna, heldur ætla jeg að láta mjer nægja að skýra fyrst frá aðalatriðunum í þeirri framsetning málsins, sem finnst í nefndaráliti því, er áður er um getið, og bæta þar við mótbárum þeim, er mjer finnst verði að gjöra móti því, nokkrum viðaukum og nákvæmari skýrslum úr almennum skjölum, o. s. frv., er jeg ætla að muni gjöra hinn sögulega sannleika auð-

sæan hverjum þeim, er hlutdrægnislaust getur litið á málið.

2. gr. Þessu máli er þannig lýst í nefndarálitinu 4. ágúst 1851[1]): „Saga Íslands er í því tilliti frábrugðin sögu flestra annara þjóða, að hún er hvað greinilegust í fornöld landsins. Ísland tók að byggjast seint á 9. öld, en snemma á hinni 10. öld skipuðu landsbúar stjórn sína. Þjóðstjórnarskipulag það, er þá komst á, hjelzt allt til þess, er landið gekk undir Noregskonung 1264 eptir frjálsum sáttmála. Hjetu Íslendingar að gjalda konungi skatt, en áskildu sjer aptur, að konungur skyldi halda þeim við íslenzk lög, og að embættismenn skyldu innlendir vera, og sögðu sig lausa við samninginn, ef út af væri brugðið af hendi konungs. Ísland varð þannig frjálst sambandsland Noregs, að því leyti, að það kom undir sama konung; hjelt það stjórnarskipun sinni sjer í lagi, með löggefandi þingi, er líka hafði dómsvaldið á hendi. Árið 1380 varð sami konungur í báðum ríkjunum, Noregi og Danmörku, og unnu Íslendingar þá Ólafi konungi Hákonarsyni hollustueið 1382. Upp frá því varð Ísland sambandsland beggja ríkjanna, en stjórnarformið breyttist ekki í neinu. Unnu menn konungum hollustueiða hjer á landi sjer í lagi, og þannig var Friðreki hinum 3. svarinn hollustueiður hjer 1649. Þannig fór og einvaldserfðahyllingin fram sjer í lagi hjer á landi 1662, að sínu leyti eins og í Noregi. Frá þeim tíma var farið að slengja saman hinni umboðslegu stjórn Noregs,

---

[1]) Hinn íslenska texta er að finna í Tíðindum frá þjóðfundi, o. s. frv., 496. bls., og þar á eptir. Danskan er tekin eptir útleggíngunni á „*Fædrelandet*“ 1851, 214. númeri, og er hún, að því leyti mjer hefur virst með að bera hana saman við frumritið, öldungis samhljóða.

Íslands og Danmerkur, að því skapi meira, sem hinu ótakmarkaða einveldi jókst afl og magn; þó hafði hver af þessum hlutum einveldisins sín lög út af fyrir sig, og í lagamálinu voru allt af nefnd 2 ríki, Danmörk og Noregur, og við hliðina á þeim konungsins land Ísland, sem partur úr einveldinu en ekki sem partur úr Noregi, og því síður úr Danmörku. Að vísu munu þess finnast dæmi, að það hafi verið af Dönum á seinni tímum álitið sem nýlenda frá Noregi; en þó margir af landnámsmönnum væru frá Noregi, þá gjörði það engan mun í tilliti til rjettinda landsins, því innbúar þess höfðu frelsi frá upphafi og voru engum háðir; bjuggu sjálfir til stjórnarlögun sína, er landið naut í nokkur hundruð ára, þangað til það gekk undir Noregskonung, en var þó sem heild út af fyrir sig, og hafði jöfn rjettindi og Noregur í öllum greinum. Löggjafarvaldið var þá í sameiningu hjá konungi og alþingi, þó með þeim mismun, að konungur gat ekki, eptir gamla sáttmála, gefið lög án samþykkis þingsins, en þar á móti mátti þingið gjöra ýmsar samþykktir, án þess að leita staðfestingar konungs. þessu valdi, er nú nefndum vjer, hjelt alþingi, ekki einungis þangað til erfðahyllingin fram fór 1662, heldur allt til þess þingið var lagt niður um næst liðin aldamót, jafnvel þó það neitti þess ekki á seinustu árunum. Stjórnarlagaskrá sú, er þegnar Friðreks konungs hins þriðja fólu honum á hendur að semja eptir stjórnarbreytinguna, er dagsett 14. nóvember 1665, og nefnist „konungalög"; í þeim er það ákveðið í 19. gr., að ríkin, Danmörk og Noregur, og öll önnur krónunni tilheyrandi lönd skyldu vera óskipt og ódeild undir einum og sama einvöldum erfðakonungi; samt sem áður neyddist konungurinn til 1814 að sleppa Noregi, en hjelt eptir hinu forna sambandlandi Noregs, Íslandi. En við hvorugt þetta breyttist staða landsins, eða gat orðið breytt

að neinu, í sambandi við ríkið; það hjelt rjettindum sínum eptir sem áður, og varð á engan hátt háð neinum öðrum hluta einveldisins".

„Að öðru leyti má þess geta, að hvorki konungalögunum, nje konungsbrjefi 4. september 1709, er þau voru birt með, er þinglýst hjer á landi".

3. gr. Eptir þetta fer álitsskjalið að ræða um viðburðina á hinum seinni tímum: „Árið 1831 gjörðist það, að konungur setti fjögur ráðgjafarþing fyrir þessa fjóra hluti einveldisins: Danmörk, Sljesvík, Holtsetaland og Ísland; en hvað Danmörk og Ísland snerti, þá setti hann ekki þingið fyrir hvern af þessum landshlutum, eins og þeirra sjerstaklega staða og ólíka ásigkomulag hefði mátt ráða til, heldur var haft meira tillit til fólksfjöldans, og Danmörku skipt í tvö þing, Eydana og Jóta, og Íslendingum boðið að eiga þing saman við Eydani; en bráðum fóru að heyrast raddir, er mæltu á móti þessari tilhögun; Danmörk óskaði, sem landsheild fyrir sig, að fá eitt þíng, og Ísland óskaði að fá þing fyrir sig; samt var í 9 ár verið að berjast við, að búa til kosningarlög fyrir Íslendinga, eptir hverjum þeir skyldu kjósa fulltrúa til þings Eydana, þangað til Kristján konungur hinn áttundi ljet það í ljósi á 1. misseri ríkisstjórnar sinnar, að Íslendingar gætu ekki haft gagn af þingi saman við Dani, þar sem þeir hefðu og þyrftu að hafa aðra löggjöf en Danir, og lagði því þann úrskurð á 20. maí 1840, að á Íslandi skyldi upp aptur rísa alþingi hið forna, og var það stofnsett 8. mars 1843. Nú leið og beið þangað til Friðrek hinn 7. tók við ríkinu; þá lýsti hann því yfir 28. janúar 1848, að hann vildi stofnsetja ríkisþing fyrir landshlutina Danmörk, Sljesvík og Holtsetaland, en Láenborg (er kom undir krónuna 1814 í staðinn fyrir Noreg) og Ísland

skyldu ekki taka þátt í þessu ríkisþingi, en að öðru leyti halda þingum sínum með sama rjetti og áður. Þessi tilhögun, að setja þannig eitt þing fyrir áður nefnda þrjá ríkishluti virtist ekki í neinum þessara hluta að ná hylli manna; varð þá hin mikla stjórnarbreyting í Danmörku, er byrjaði í marz 1848. Ráðgjafastjórn sú, er þá var stofnuð, virtist að hníga að þeirri skoðun, að hertogadæmin Holtsetaland og Láenborg, hverjir landshlutir eru í hinu svo nefnda þýzka sambandi, ættu að fá stjórn út af fyrir sig, en hertogadæmið Sljesvík, konungsríkið Danmörk og lönd konungsins Færeyjar og Ísland, ættu að skoðast sem nokkurs konar heild út af fyrir sig, og þessa heild vildu Danir á ríkisfundinum veturinn 1848—49 nefna Danmerkurríki, til aðgreiningar frá hinu svo nefnda konungsríki Danmörk, er einungis innibindur í sjer Jótland og Eyjarnar. En á tjeðum ríkisfundi voru ekki þjóðkjörnir fulltrúar, nema einungis frá Danmörku, og þess vegna lýstu ráðgjafar konungs því yfir, að grundvallarlög þau, er lögð voru fyrir fundinn, gætu ekki, eptir því sem ástatt var, verið nema til bráðabyrgða hvað Sljesvík og Ísland snerti, eins og líka konungurinn hefur geymt landshlutum þessum rjett sinn í tilliti til þeirra ákvarðana, er nauðsynlegar mættu þykja til að ákveða stöðu og stjórnarlögun þeirra“.

„Hvað Ísland sjer i lagi snertir, flýtur það líka beinlínis af því, hvernig Ísland fyrst sameinaðist Noregi, og síðan Danmörku, að konungur vor getur ekki löglega sleppt hinni ótakmörkuðu einvaldsstjórn sinni yfir landinu, sem byggð er á hollustueiði þeim, er landsmenn unnu Friðreki hinum þriðja árið 1662, nema eptir samkomulagi við þegna sína á Íslandi. Og að þetta sje meining konungsins, sjest bæði á brjefi hans frá 23. september 1848, og á því, að hið konunglega frumvarp, sem lagt er fyrir

þjóðfundinn, er þannig lagað, að fundurinn einmitt með því er kvaddur til að segja álit sitt um, hvort og að hve miklu leyti grundvallarlögin frá 5. júní 1849 skuli vera gild á Íslandi“.

4. gr. Þetta er nú lýsing nefndarálitsins á rjettindum þeim, er það álítur að Ísland hafi. Það liggur undir eins í augum uppi, að þessi lýsing gjörir of mikið úr hinu upphaflega sambandi við Noreg á þrettándu öld, og fer of laust yfir viðburði hinna seinni tíma. Þó að það nú yrði sagt með sönnu, að sáttmáli þessi upphaflega hefði sett Ísland jafnhliða Noregi „sem frjálst sambandsland“, — en þetta er að minnsta kosti mjög vafasamt, eins og jeg seinna skal betur sanna —, þá er þó, hvernig sem á er litið, vístu að ákvarðanir þessa sáttmála fengu innan skamms með lagaboðum, er Íslendingar sjálfir fjellust á, verulegar breytingar og viðauka, er miðuðu í allt aðra átt, og að hið löglega samband landsins við aðallöndin Noreg og Danmörku varð smám saman þannig, að enginn gat nefnt það frjálsan sambandsrjett, þó að slík rjettindi hefðu einhvern tíma verið. En það leiðir af sjálfu sjer, að það er þetta löglega ástand, sem myndaðist þannig smám saman og festist eptir þörfum og nauðsyn tímanna, sem borið var fram í opinberum skjölum, og af öllum var viðurkennt, er álíta má almennan rjett Íslands á hinum eptir fylgjandi tíma, en ekki það, er nú má leiða út úr því, er sáttmálinn á þrettándu öld inniheldur, þegar hann er tekinn rjett eptir orðunum. Það er og auðsætt, að ýmislegt, sem er til fært í framsetningu nefndarálitsins til sönnunar um, að landið hafi verið eins og ríki út af fyrir sig, getur engan veginn sannað þetta. Sjerstök þing, er samþykktu lög fyrir sjerstaka landshluti, konungstekja í landi sjer í lagi, o. s. frv., var mjög almennt á mið-

öldunum, og getur það að vísu sannað að landshlutinn hafi haft hitt og þetta út af fyrir sig, en meira ekki. Og þó að það nú hafi leitt af hinu sjerstaka ástandi landsins, einkum fjarlægð þess, að slík sjálfstjórn í sjerstökum hluta ríkisins í ýmislegum innanlands málum hafi bæði upphaflega verið gildari, og haldist þar lengur en í Danmörku eða Noregi, þá leiddi það einnig á hinn bóginn af þessu, að Ísland gat venjulega ekki að sínum hlut tekið þátt í úrskurði sjerstakra mikilsvarðandi ríkismálefna, er það annars hefði getað átt hlutdeild í, t. a. m. konungstekju, en var álitið skyldugt til að hlíta því, er ályktað var um það í aðallöndum ríkisins.

Í tilliti til hinna stórkostlegu stjórnarbreytinga í aðallöndunum, er einnig urðu að hafa áhrif á hag Íslands, vil jeg, í því er eptir kemur, gjöra mun á þessum tímabilum: 1, tímabilið undir stjórn Noregskonunga frá því að landið sameinaðist Noregi 1262 þangað til 1380; 2, tímabilið undir stjórn konunganna yfir Danmörku og Noregi frá 1380 þangað til einveldið komst á; 3, tímabilið frá því að einveldið komst á, þangað til að ráðgjafarþingin voru sett 1831; og 4, tímabilið síðan til þessa tíma.

## I.

## Tímabilið undir stjórn Noregskonunga frá 1262 til 1380.

5. gr. Það sem einkum steypti þjóðstjórn Íslendinga var það, að einstakir voldugir höfðingjar rufu lögin og stjórnarskipunina, og að hinar helztu ættir áttu í vígum og styrjöldum sín á milli. Í ófriði þessum fóru ýmsir voldugir höfðingjar til Noregs til að leita sjer þar liðs.

þeir gengu til handa Noregs konungum og í þjónustu þeirra — er lengi höfðu haft hug á að koma Íslandi undir vald sitt —, og heitbundu sig í því að koma eyjunni undir konung. Fyrir tilstyrk þessara manna höfðu Noregskonungar þegar frá miðri þrettándu öld nokkurs konar yfirvald yfir Íslandi [1]; en skatta vildu Íslendingar ekki gjalda, þangað til það loksins tókst Hákoni Hákonarsyni og Magnúsi Lagabætir, Noregskonungum, árin 1262—1264 að fá þá einnig til þess, og leggja landið til fullnustu undir konungsvald. Um þetta er til skjal, og er það brjef frá Íslendingum til Hákonar konungs, og eru þar í taldir skilmálar þeir, er þeir setja, þegar þeir ganga undir konungsvald [2]). Aðalinntak þessa brjefs er, að Íslendingar lofa að gjalda konungi og erfingjum hans skatt og þingfararkaup og alla þegnskyldu, og skyldi konungur setja jarl yfir þá til að stjórna landinu, en allt þetta var þó með vissum skilmálum, t. á. m., að engum skyldi utan stefnt, nema þeim, sem dæmdir væru á alþingi til útlegðar, að lögmenn og sýslumenn skyldu vera íslenzkir af ætt þeirra, sem hefðu afsalað sjer goðorðunum, eða hinni arfgengu hjeraðastjórn; að konungur skyldi láta þá halda íslenzkum lögum, og að nokkur skip skyldu ganga til landsins á hverju ári með nauðsynjavörur. Enn fremur

---

[1]) Hjerumbil einni öld áður var Ísland lagt undir erkistólinn í Noregi, þegar hann var stofnaður.

[2]) Á frummálinu er það prentað í Jónsbók 1709, 173. bls., í *Norges gamle Love*, er *Kayser* og *Munch* hafa gefið út, I. b. 460. bls. og í *Lovsamling for Island* eptir Stephensen og Sigurðsson I. b. 11. bls. Á dönsku er það til í útleggingu Jónsbókar eptir *Thorhallesen* 376. bls., en mjög ónákvæmt; betur er því snúið í *Grundlag for Forelæsninger over den danske Privatret* eptir *Krieger*, 120. bls.

áskildu Íslendingar sjer ýms rjettindi í Noregi, t. a. m. um erfðafje, bætur fyrir fullrjettisorð, og uppgjöf á landaurum. Að endingu er því við bætt, að Íslendingar og þeirra arfar skuli halda loforð sín, meðan konungur og hans arfar haldi þessar sáttargjörðir, en annars skuli þeir lausir allra mála[1]).

Ef menn gæta nú nákvæmar að efni þessa brjefs. virðist það þegar, að ekki verði með sönnu sagt, að Ísland hafi staðið eins og frjálst sambandsland jafnhliða Noregi. því verður ekki neitað, að það virðist fremur sem Ísland gefi sig undir Noreg sem aðalland eða ættland, og þannig álitu og lýstu Íslendingar sjálfir því mjög skýrt[2]). Íslendingar lofuðu að greiða konunginum skatt sem Noregskonungi, og átti hann frjálst að verja honum til Noregs þarfa eða hvers annars, er hann vildi. Konungur hafði auk þess hið venjulega konungsvald yfir landinu, ef hann einungis rauf ekki hin einstöku rjettindi, er Íslendingar höfðu áskilið sjer. það var að öllu samtöldu hin venju-

---

[1]) það kynni að þurfa nákvæmari rannsóknar við, hvort þetta skjal er í rauninni brjef Íslendinga til Noregskonungs, sem skrifað er um sama leyti, og um er getið í 311. kapítula í Hákonarsögu Hakonarsonar, eða hvort það ekki, með því sniði, sem það nú hefur, sje skrifað miklu seinna, og virðist mjer að margir staðir í því vekji grun um það, t. a. m., þegar sagt er, að Íslendingar skuli greiða konungi skatt og þingfararkaup sem lögbók vottar, því þessi tilvísun á mjög vel við Jónsbók en virðist varla verða heimfærð til Grágásar; og þegar sagt er, að lögmenn og sýslumenn skuli vera af þeirra ætt sem að fornu hafa goðorðin upp gefið. þó getur það að minnsta kosti varla verið efunarmál, að aðalefnið sje hið sama og í samninginum stóð, er þá var gjörður: sbr. hina svo nefndu nýju sáttmála, er síðar skal getið.

[2]) Sjá Hákonarsögu Hákonarsonar, sem samin er af samtíða manni Sturlu þórðarsyni, 311. kapítula, og íslenzka annála, 130. bls.

lega aðferð, er lönd á miðöldunum gáfu sig undir, eða voru lögð undir ríki, er áður var stofnað, að konungurinn, áskildi sjer, auk hins æðsta stjórnarvalds, skatta og aðra hagsmuni, en ljet landið halda meira eða minna frelsi í innanlands stjórn þess. Að öðru leyti hefur ekki skjal þetta, eins og ætla mætti eptir nefndarálitinu, beinlínis áskilið alþingi neina hluttekning í löggjafarvaldinu. Þó var það nú víst álitið sjálfsagt, að varla mundu nein mikilsvarðandi lög sett í landinu nema með samþykki landsmanna, en þetta gat ekki sannað meira en rjettindi þau, er hver sjerstakur hluti ríkisins hefur, því eins og þá stóð á, gat ekki verið umtalsmál að leggja landið undir almennt löggjafarþing í Noregi; því ríkissambandið í Noregi sjálfum var þá enn svo skammt komið, að þjóðin, er hafði þátt í löggjafarvaldinu, hafði ekkert allsherjarþing til að neyta valds þessa, svo að það varð að lögleiða hin endurbættu lög Magnúss konungs lagabætis á hinum 4 aðallögþingum sem sjerstök fyrir hvert lögdæmi, þó að hin 4 nýju lög væru svo að kalla öldungis samhljóða. Eins var farið með hin nýju bæjalög, er voru lögleidd sjerstaklega í hverjum hinna fjögra stærri kaupstaða. En lögdæmi þessi, er voru þannig hvert út af fyrir sig, voru þó engan veginn sjerstök sameinuð ríki heldur einungis landshlutar í einu og sama ríki.

Það virðist að álíta mætti Ísland, eptir að sambandið var gjört, land, er heyrði Noregsríki til og væri lagt undir það, sem að vísu hefði áskilið sjer, viss sjerstök rjettindi, en sem þó mætti álíta eins og skattland í hinu heila Noregsríki.

6. gr. Það var við því að búast, þegar Noregskonungar höfðu fengið vald yfir Íslandi, að þeir mundu reyna til að auka vald sitt og gjora lög og rjett þar

í landi í öllu sem þeir gátu, sem líkast því, er var í Noregi, þó að þeir hölluðu með því frelsi Íslendinga; og þessar tilraunir þeirra tókust þeim einnig vonum betur. Að vísu voru lög þau er giltu í báðum löndunum af hinni sömu rót runnin í fyrstu, en þau voru þó orðin í mörgu ólík í vexti sínum og viðgangi. Það er mælt að Hákon Hákonarson, er fyrstur kom landinu undir konungdóm, hafi þegar — hann dó árið eptir 1263 — búizt við að taka af lög og rjett, er þá gilti á Íslandi, og koma norskum lögum á í stað þeirra. Hin nýja lögbók handa Íslandi, sem mælt er hann hafi látið semja, hin svo nefnda Hákonarbók eða Járnsíða[1]), sem kom til Íslands 1271 á dögum Magnúsar lagabætis[2]), er öldungis gjörð eptir hinni norsku löggjöf, er þá gilti, þar eð henni í öllu verulegu ber saman við Frostaþingslög hin eldri. Það tókst að sönnu að fá Íslendinga til að lögleiða bók þessa, en þeim líkaði hún þó ekki, einkum sökum hinna þungu refsinga; svo að Magnús konungur lagabætir ljet semja nýja lögbók, er þó í öllum aðalatriðum inniheldur norsk lög, og fer eptir hinni áður nefndu almennu lögbók, er hinn sami konungur kom á í Noregi. Þessi lögbók, hin svo nefnda Jónsbók, var, eptir nokkra mótstöðu, leidd í lög á alþingi 1281, árinu eptir að konungurinn andaðist, og gildir hún enn að nokkru leyti á Íslandi. Nokkrum

[1]) Hún er prentuð í *Norges gamle Love* I. b., 259. bls., og sjerstaklega gefin út á kostnað gjafasjóðs Árna Magnússonar 1847.

[2]) Það er víst, að lögbókin hefur á þessum tíma komið til Íslands og verið leidd þar í lög smátt og smátt, en saga hennar er mjög óviss, og einkum hvern þátt Hákon konungur hafi átt í henni. Sbr. Ritgjörð um þetta efni eptir Sveinbjörnsen í útgáfunni 1847, og *Antiquarisk Tidsskrift* 1846—48, 128. bls. og þar á eptir.

árum áður, 1275, hafði Árna byskupi tekizt að fá Íslendinga til að lögleiða nýjan kristinnrjett, er meira líktist lögum hinnar katólsku kirkju, og í mörgu ber saman við norska kristinnrjett Jóns erkibyskups.

þessi framan talda nýja löggjöf breytti í mörgum hlutum hinni eldri löggjöf í landinu, og lagaði hana eptir norskum lögum. Einkum var rjettargangi þeim, er þangað til hafði staðið, eða dómaskipun og þingsköpum, breytt eptir norskum háttum. Erfðagoðorðin voru af tekin og í stað goðanna komu sýslumenn, er umboðsmaður konungs til nefndi. Alþingið var eins og áður haldið á sama stað, og hafði áþekkt dómsvald og stjórnarvald og áður, en það var lagað eptir norsku sniði, og stjórnaði því lögmaður, er konungur nefndi, og seinna tveir lögmenn. Nákvæmar verður ekki öllum þessum breytingum hjer lýst[1]; en þó vil jeg sjerstaklega taka fram nokkur atriði, er snerta stöðu konungs, og hið löglega samband hans við Íslendinga.

Fyrst og fremst stendur í Jónsbók, kristinndómsbálki III. kapítula og eptir fylgjandi, öldungis samhljóða hinni samtíða norsku lögbók, að einungis einn skuli konungur vera yfir öllu Noregsveldi bæði, eins og það er kallað, innan lands og svo skattlöndunum. þar á eptir koma reglurnar um, hvernig konung skuli kjósa að lögum. þessi kosning skal nefnilega fram fara í þrándheimi, og skulu allir hertogar, jarlar, byskupar og ábótar og sýslumenn og nokkrir hinna helztu manna fara þangað í hinum sama mánuði, er þeir spyrja fráfall konungs, til að kjósa

[1]) Sbr. *Arnesens islandske Rettergang* 477. bls. og þar á eptir, og 494. bls., þar á eptir og víðar; *Dahlmann Geschichte von Dänemark* II. b. 292, bls., og þar á eptir.

konung. Hjer er hvergi talað um hlutteknengu Íslendinga í konungskosningu, og gat ekki heldur verið eptir allri tilhöguninni, og virðist það þannig auðsætt, að Ísland í þessari lögbók, er Íslendingar hafa sjálfir lögtekið, hafi verið talið með norskum skattlöndum, er enga hlutdeild höfðu í konungskosningu, ef hún skyldi fram fara, heldur urðu að hlíta ályktun þeirri, er gjörð var í aðallandinu.

Enn fremur ákveður Jónsbók um hið æðsta dómsvald konungs í IX. kapítula í þingfararbalki, að „ef nokkur skýtur máli sínu undan lögmanni til Öxararþings, þá rannsaki lögrjettumenn innvirðulega það mál; og þó þeim sýnist öllum, sá úrskurður, er lögmaður hefur gjört, vera ekki löglegur, þá skulu þeir þó ekki þann úrskurð rjúfa mega. En rita skulu þeir til konungs, hvað þeim sýnist rjett í því máli, og slíkt rannsak sem þeir hafa framast prófað þar um; því að þann úrskurð, er lögmaður gjörir á, má engi maður rjúfa, nema konungur sjái, að lögbók votti í móti, eða sjálfur konungur sjái, að annað sje rjettara og þó með hinna vitrustu manna ráði og samþykki, því að hann er yfir skipaður lögin.“

Í lögunum er enn fremur sjerstakur þáttur um þegnskyldu; þar er einkum talað um gjald á skatti og þingfararkaupi til konungs[1]), hve mikið það skuli vera, og hvernig það skuli greitt. Auk annara hlunninda, sem lögbók enn áskilur konungi, t. a. m., að konungur tekur arf, er engi erfingi er til, tekur sektir fyrir ýmisleg lagabrot — og átti konungur rjett sinn, þó að sakaráberi sættist á málið, sbr. Mannhelgi 23 kapítula —. Einkum átti konungur að taka vígsbætur, hið svo nefnda þegngildi,

---

[1]) Sýslumenn guldu þó konungi einungis helming og höfðu sjálfir helming eptir.

þ. e.: bætur fyrir að vega þegn konungs. Ákvörðunin um þetta í 1. kapítula í mannhelgi byrjar þannig með almennum orðum: „það er hið fyrsta í mannhelgi vorri, að vor landi hver í Noregs konungs ríki skal friðheilagur vera við annan utan lands og innan". þessir og fleiri staðir í lögbókinni sýna, að ekki var álitið að Ísland væri skilið frá eða stæði jafnhliða hinu norska konungsríki, heldur væri einn hluti þess, og að Íslendingar voru álitnir eins og aðrir norskir þegnar.

7. gr. Frá tímabilinu, er hjer kemur næst á eptir, eru til þrjár yfirgripsmiklar og merkilegar rjettarbætur eða konunglegar tilskipanir, Eiríks Magnússonar 1294 og Hákonar Magnússonar 1304 og 1314, er breyttu og ákváðu nákvæmar margar greinir í lögbókinni, og er þeim því skotið inn í lögbókina á sínum stöðum í smágreinum[1]). það segir nú reyndar í rjettarbótum þessum að þær sjeu gjörðar eptir ósk og beiðni Íslendinga, en að öðru leyti virðast hinir norsku konungar að koma þar fram sem fullkomnir lögráðendur, án þess nokkur merki sjáist til þess, að þeir viðurkenndu, að alþingi á Íslandi þyrfti að samþykkjast þessar rjettarbætur til þess að þær fengju lagagildi[2]).

Á þessum tíma er einnig komin út merkileg norsk tilskipun, er mjög vel lýsir sambandi Íslands við Noreg, einkum í tilliti til þess, þegar sagt er, að Ísland hafi verið eins og frjálst sambandsland; það er tilskipun Hákonar

---

[1]) þær eru prentaðar í heilu lagi í „*Lovsamling for Island*", hver á sínum stað.

[2]) Sbr. Endir á rjettarbót 1314: „Bjóðum vjer að þjer haldið alla þessa articulos, og latið skrifa í bok yðra." þó var einmitt þessi rjettarbot samþykkt á alþingi árið eptir. Íslenzkir annalar, 206. bls.

Magnússonar, — það er ekki til greint ár eða dagur, nær hún hefur komið út, en menn ætla það hafi verið 1302[1]) —, er bannar öllum útlendum mönnum verzlun norðan til í Noregi, á Íslandi eða öðrum skattlöndum konungs, og þetta bann endurnýjaði Magnus Eiríksson 1348[2]).

Frá þessu tímabili eru og til tveir svo nefndir nýir sáttmalar við Noreg, hinn fyrri 1302[3]), og hinn seinni 1319[4]). þessi tvö skjöl eru þó ekki nýir sáttmálar, heldur umkvartanir, eða ef til vill rjettara sagt mótmæli frá Íslendinga hálfu moti því, er þeir álitu, að gengið hefði verið fram hjá gamla sáttmála af Norðmönnum. Auk þess að þeir kvarta um, að skip þau vanti, er á ári hverju skyldi senda frá Noregi til Íslands með vissar nauðsynjavörur, reyna þeir einkum að fá tvennu framgengt, 1: að

---

1) *Norges gamle Love*, III. b. 134. bls.

2) Á sama stað, 170. bls. Í tilskipanasafni fyrir Noreg eptir *Paus*, 185. bls. er meðal tilskipana Eiríks prestahatara (1280–1299) talin tilskipun, er svo segir: „að þar eð útlendir menn hafi siglt og sigli til Helgulands, Finnmerkur, Íslands og annara staða í voru skattlandi móti lögum og tilskipun feðra vorra, er vjer engan veginn viljum lengur þola, þá bjóðum vjer, o. s. frv.“ Eptir þessuætti þessir takmörkun á hinni íslenzku verzlun að vera upphaflega eptir Magnús lagabætir eða Hákon Hákonarson. En tilskipun sú, er *Paus* þannig hefur snúið og eignað Eiríki prestahatara, er miklu yngri, nefnilega frá dögum Eiríks úr *Pommern* 1425. Sbr.: *Nordisk Tidsskrift for Oldkyndighed*, II., 118. bls., og *Samlinger til det norske Folks Historie* V.; 628. bls. Íslenzkir annálar segja að 1411 hafi komið brjef til Íslands um þess konar bann frá Eiríki konungi, Íslenzkir annálar, 390. bls. Sbr. samning Eiríks konungs við Englakonung 1432 í *Lovsamling for Island*, I., 35. bls.

3) *Norges gamle Love* III., 145. bls. *Lovsamling for Island*, I., 23. bls.

4) *Lovsamling for Island*, I., 32. bls.

Íslendingar einir sjeu lögmenn og sýslumenn. Það segir nokkrum sinnum frá því í íslenzkum annálum, að útlendir lögmenn hafi verið settir, t. a. m. 1301, að tveir norskir lögmenn komu til landsins, sem sögðust hafa konungsbrjef fyrir því, að hver maður skyldi sekur 15 mörkum, er ryfi lagaúrskurð þeirra. Það má sjá af þessu, að hinir norsku konungar hafa annaðhvort ekki viðurkennt, að nokkur þess konar skilmáli væri gjörður í hinum upphaflega samningi, eða þeir hafa ekki lengur þótzt bundnir við hann; 2: að utanstefningar skyldu engar vera framar en lögbók vottar. Eptir hinum upphaflega samningi mátti engum stefna utan burt af landinu nema útlægum mönnum, og í sjálfri Jónsbók er heldur engi eiginleg heimild fyrir þess konar utanstefningum; sbr. fyrirfarandi grein; en í hinni áður nefndu rjettarbót 1314, 1. gr., sem skotið er inn í 9. kapítula í þingfararbalki, segir, að í þeim málum, „er lögmenn og sýslumenn fái ekki yfir tekið[1])“ skuli gjöra tólf mánaða stefnu til Noregs, svo að þar megi rjett af gjöra. Í hinum íslenzku annálum er þess opt getið, að konungur stefnir mönnum utan til Noregs með brjefi, en venjulega virðist þar ekki miðað til dómsmála, heldur hafi konungur í öðrum málefnum stefnt á fund sinn nokkrum af hinum helztu höfðingjum og nokkrum handgengnum mönnum og bændum[2]). Það eru, ef til vill, þess konar utanstefningar til Noregs, sem brjefin 1302 og 1319 eiga við.

---

[1]) Þetta er ekki auðskilið, en líklega lýtur þetta til þeirra mála, er ekki urðu leidd til lykta í landinu, annaðhvort sökum þess að málið var svo vandasamt, eða sökum ofurvalds þess, er var fyri sök hafður.

[2]) Sjá í íslenzkum annálum, árin 1286, 1298, 1303 og 1301. Sbr. þó *Suhm* XIV., 243. bls.

því má enn við bæta, að Noregskonungar ljetu að vísu að jafnaði á þessu tímabili sjerstaklega sverja sjer land og þegna á Íslandi, þannig að þeir sendu erindisreka, er fyrir konungs hönd tóku trúnaðar og hollustueiða af landsmönnum; en að sverja konungi land og þegna í sjerstökum hlutum ríkisins var á þeim tíma og seinna almennt á norðurlöndum [1]) — og má ekki blanda því saman við konungskosningu —, svo að engin sönnun verður leidd af því fyrir, að Ísland væri álitið eins og ríki út af fyrir sig. Jónsbók sjálf hefur einnig í 11. kapítula í kristinndómsbálki öldungis rjettan skilning á þýðingu þessa hollustueiðs, þar sem segir, að þegnskyldan byrjaði hvorki nje var komin undir þessum hollustueið, en að konungur geti látið svo marga, sem hann vildi, af bændum og almúga í hverju fylki sverja þenna eið, svo að þeir viti sig því skyldari til hollustu, þegnskyldu og hlýðni við hann. Öðru máli er þar að gegna, að Íslendingar gátu við þess konar tækifæri, samkvæmt því er áskilið var í gamla sáttmála, álitið sig hafa rjett til að neita hollustueiðnum, er þeim þótti hinn upphaflegi samningur miður haldinn af Noregs hálfu, og um þetta er dæmi til í hinum áður nefnda nýja sáttmála 1319, sem er í rauninni þess konar mótmæli Íslendinga, þegar krafizt var hollustueiðs til handa Magnúsi Eiríkssyni (smekk); þar í segja þeir, að þeir vilji fá brjeflegt loforð um, að samningurinn verði haldinn, áður en þeir sverji. það leiddi nú samt ekkert meira af þessu, þar eð Íslendingar sóru konungi skömmu seinna hollustueiðinn [2]).

---

[1]) Sbr. Um kosninguna í Danmörku: *Historisk Tidsskrift* I., 252. og 325. bls.

[2]) Sjá íslenzka annála, 214. bls.

## II.

## Tímabilið undir stjórn Dana og Noregskonunga frá 1380 þangað til einveldið komst á

8. gr. Ólafur konungur var kosinn til konungs í Danmörku 1376, en erfði Noreg eptir Hákon föður sinn 1380, og þá einnig Ísland, og komst land þetta þannig í samband við Danmörku. Eptir lát Ólafs konungs var Margrjet drottning ekki arfborin til ríkisins eptir hinum norsku erfðalögum; en hinir norsku ráðherrar, bæði leikmenn og klerkar, kusu hana í Osló í febrúar 1388 fyrir bönd ríkisins, eins og gjört var í Danmörku árinu áður, fyrir fullvalda frú Noregsríkis og rjetta húsmóður, og til að ráða fyrir Noregi og skattlöndum, er undir Noreg liggja meðan hún lifði, og kröfðu alla menn í endilöngum Noregi og skattlöndum hans til að sverja henni hollustueið, og skyldu sýslumenn í hverri sýslu taka eiða af mönnum[1]. Það er eptir öllu áður töldu vafalaust, að Ísland er eitt af skattlöndum þeim, er skyldu hlíta þessum úrskurði ríkisráðsins, eins og það líka er víst, að Margrjet hefur haft stjórnar valdið yfir landinu[2]). Á hinum eptir fylgjandi tíma, einlægt þangað til einveldið komst á, er sú lagaregla við höfð, sem byggð er á Jónsbók, að konungskosning, sem fer

---

[1]) *Suhm*: *Historie for Danmark*, XIV., 199. bls., og þar á eptir.

[2]) Þannig sendi hún hirðstjóra til Íslands 1390; og 1392 lagði hún skatt á landið. Íslenzkir annálar 344. og 352. bls. Annálar geta þess ekki, að Íslendingar hafi svarið henni eiða, en *Suhm* XIV., 290. bls. segir, að það hafi verið gjört 1391, og er það þó varla áreiðanlegt.

fram í aðallandinu, gildir beinlínis á Íslandi[1]), og ekki veit maður til, að Íslendingar hafi gjört nokkur mótmæli gegn því. Konungar þeir, er þannig voru kosnir, ljetu reyndar að öllum jafnaði sverja sjer hollustueiða á Íslandi, en þeir kröfðust þessa kollustueiðs eins og skyldu, er Íslendingar skyldu gegna og gætu ekki neitað. Skjöl til að skýra það, er hjer er sagt, skal jeg til nefna:

1. Hina svo nefndu löngu rjettarbót Kristjáns konungs 1. 1450[2]). það, að allur lýður í Noregi hefur tekið hann til konungs og svarið honum hollustueiða, er tilfært í inngangi hennar sem heimild fyrir því, að konungur hafi rjett til og sje skyldur að hafa samþykki hins norska ríkis-

---

[1]) Í frumvarpinu til að endurnýja og bæta Kalmarsambandið 1536. eru Íslendingar heldur ekki taldir með þeim, er eiga að koma fyrir Noregs hönd til að kjósa konung. *Hvitfeld* I., 799. bls. og betra í *Hadorphs Rimkrönike* II., 121. bls.

[2]) Hún stendur í *Forordninger og aabne Breve til Island under Kongerne af den oldenborgske Stamme*, eptir Magnús Ketilsson I., 10. bls., og þar á eptir. Mjer er ekki ljós ástæðan fyrir því, að þessi merkilega rjettarbót stendur ekki sjálf, heldur einungis titill hennar, í *Lovsamling for Island*. er samkvæmt fyrirsögninni átti að innihalda „allar hinar heldri ákvarðanir, sem eru áríðandi, annaðhvort fyrir lagasögu Íslands, eða sökum þess þær eru þar við hafðar.“ Jeg skal einungis geta þess, að því leyti, sem höfundarnir hafa til fært, „að hún finnist ekki í alþingisbókum“, að þess bar fyrst að gæta, í tilliti til þess. hvaða þýðingu skjal þetta hefði í lagasögu Íslands, hvort hún hefði verið mótmælalauat við höfð. Og þetta, er þegar virðist mega ráða af hinum mörgu staðfestu eptirritum hennar, hafa hinir fróðustu Íslendingar álitið vafalaust. Sjá, auk M. Ketilssonar: Finni Johannæi Hist. eccl. Isl. II., 232. bls., og þar á eptir, *Det islandske jus criminale* eptir Svein lögmann Sölvason, 44. og 100. bls., Commentatio de legibus quæ jus Islendicum hodiernum efficiant, eptir Magnús Stephensen, 135—136. bls. En sje nú þessu þannig háttað, má það án efa á einu standa, hvort rjettarbótin finnst skrásett af alþingi

ráðs, þegar hann gefur lög handa Íslandi. Meðal annars er það bannað í 10. gr. að álíta neinn annan rjettan konung í Noregi en konunginn og son hans eptir hann.

2. Brjef Krisjáns konungs þriðja til innbúa Hólabyskupsdæmið 1551[1]; þar segir svo: „Sömuleiðis að þjer komið saman á hentugum tíma, þegar og á þeim stað, sem hinir áður nefndu *Axel Juel* og *Christopher Thrundsen* munu bjóða yður, og að hjer hlýðnist þeim í því að sverja oss og hinum ástkæra syni vorum, Friðreki hertoga, er konungur á að verða í Danmörku og og Noregi eptir vorn dag, hollustu og trúa þjónustu, sem þjer eruð oss, yðar rjettum herra og konungi um skyldugir.“

3. Brjef Friðreks annars til Íslendinga um hollustueið 1559[2]: „Vitið að þar eð Guð . . . . hefur kallað . . . . Kristján konung þriðja, hinn ástkæra föður vorn, úr þessum fallvalta heimi, og alþýða í Danmerkur- og Noregsríki hefur svarið oss hollustu sem rjettum herra sínum og konungi, höfum vjer nú sent vorn elskulega *Knud Steensen*, undirmann vorn og þjón og embættismann á áður nefndu voru landi Íslandi, til að fara til alþingis um Jónsmessu á næstkomandi sumri, til að taka af yður hollustu og hlýðni fyrir Vora hönd. Því biðjum Vjer yður alla og sjerhvern, að þjer sendið fulltrúa yðar úr hverri sýslu á landinu til þessa alþingis, til að heita áður nefndum *Knud Steensen* hollustu, og sverja honum eiða fyrir Vora hönd, um að þjer viljið vera oss hollir og trúir . . . ., eins og þegnar eru sínum rjettum herra og konungi um skyldugir.“

---

[1]) Sbr.: Safn M. Ketilssonar, I., 285—86. bls.

[2]) Sbr.: Safn M. Ketilssonar, II., 2. bls. o. s. frv.

4. Brjef Friðreks konungs þriðja til Íslendinga um hollustueið 1640[1]: „Vjer efumst ekki um, að yður öllum og sjerhverjum sje kunnugt, að Guð . . . . hefur kallað burt . . . . Kristján konung fjórða . . . ., og að Vjer höfum komið eptir vorn ástkæran föður andaðan, og tekið að Oss fullkomna stjórn í þessum löndum og ríkjum, eptir venjulegri kosningu og hollustueiðum; þar eð Vjer engan veginn efumst um, að einn og sjerhver meðal yðar minnist skyldu sinnar, og hegðið yður og hagið sem hlýðnir og trúir þegnar, eins og í öðrum löndum, sem lögð eru undir þessi ríki, þá hefur oss virzt rjett hlýða að senda umboðsmenn Vora, er Vjer þar til skipum, til að láta alþýðu landsmanna sverja Oss hollustueiða á alþinginu, sem kallað er Öxarárþing, og ákveða til þess Pjetursmessu og Páls á yfir standandi ári; og höfum Vjer í þessu skyni sent þessa umbodsmenn Vora . . . ., að þeir á tilteknum stað og tíma taki hollustu- og trúnaðareiða af alþýðu manna í landinu; því biðjum Vjer yður alla og bjóðum einum og sjerhverjum, að þjer háttið svo til, að þjer getið vissulega komið þar saman á nefndum stað og tíma, og að þjer sverjið þar yðar hollustu- og skyldueiða."

Þess má enn geta, að það ber að vísu opt við á þessu tímabili, eins og seinna, að konungur í brjefum og boðskap sínum til Íslands hefur orðatiltækið „Vort land Ísland" á sama hátt eins og þrásinnis stendur í sjerstökum konungabrjefum til hjeraða í Danmörku „Vort land Fjón", „Vort land Borgundarhólmur", o. s. frv.; en af þessu verður auðsjáanlega engi sönnun dregin í þá stefnu er nefndarálitið hefur ætlað. Þetta orðatiltæki er einnig, einkum

[1]) Sbr.: Safn M. Ketilssonar, III., 9., o. s. frv.

framan af á þessu tímabili haft jöfnum höndum og „land Vort og Noregs krónu, Ísland“, og optast var Ísland beinlínis talið með þegar nefnt var Noregsríki [1]).

9. gr. Það er ekki tilgangur þessarar litlu ritgjörðar, eins og áður sagt, að rekja sjerstaklega allar breytingar, þær er urðu á högum Íslands smátt og smátt, og vil jeg þannig enn einungis stuttlega taka fram nokkra hina markverðari viðburði og ástand á þessu tímabili:

Ákvörðun sú í skuldbindingarskrá (*Haandfæstning*) Kristjáns konungs þriðja, er svipti Noreg stjórn út af fyrir sig, hafði mikil áhrif á alla landstjórn. Þegar búið er að telja upp ástæðurnar til þessa, segir svo: að konungur hefði heitið og lofað ríkisráði og eðalbornum mönnum í Danmörku, að, ef honum tækist að leggja undir sig Noregsveldi, eða nokkurn hluta þess, konungsbæi, lönd eða sýslur, er þar til lægju, skyldi það síðan liggja undir Danmerkur krónu eins og hvert hinna landanna, Jótland, Fjón, Sjáland eða Skáney [2]). Þessari ákvörðun varð nú að mestu leyti framgengt, og Ísland komst þannig einnig í nánara samband við dönku krónuna og hina dönsku stjórn. Samtíða þessu var siðabótin, er einnig hafði mikil áhrif á mörg veraldleg efni. Á Íslandi var mikil mótspyrna gegn síðabótinni, svo að konungur varð jafnvel að senda þangað herlið til að buga hana, Siðabótinni varð fyrst komið á i Skálholtsbyskupsdæmi 1541, en í Hólabyskupsdæmi ekki fyr en 1551. Þegar

---

[1]) Sbr. Tilskipun Kristjáns annars 1507 hjá M. Ketilssyni I. 138. bls.; „og haldist í öllu Noregsveldi og löndum þeim, er liggja undir Noregs krónu, bæði Íslandi, Setlandi og Færeyjum, eins og annarstaðar hjer í Noregi.“

[2]) *Kragh*, Saga Kristjáns konungs þriðja II. 47. bls. í *Videnskabernes Selskabs Sskrifter*, X. 1770, 31. bls.

siðabótin komst á, varð konúngur forstjóri kirkjunnar, og konungsmenn tóku hin veraldlegu völd eptir hina katólsku byskupa, og klaustrin á Íslandi voru dregin undir krónuna, o. s. frv. Skömmu seinna var stofnaður yfirdómur á Íslandi eptir tilskipun Friðreks konungs annars 27. marz 1563, er var endurnýjuð með tilskipun Kristjáns konungs fjórða 6. desember 1593[1]. Í yfirdómi þessum skyldu vera umboðsmaður konungs og 24 af hinum helztu mönnum á landinu, er hann skyldi til nefna, og skyldi yfirdómur þessi dæma um dóma lögmanna. Frá yfirdómi þessum skyldi aptur mega skjóta málum til **konungs og ríkisráðs Danmerkur**, og var Ísland þannig að dómgæzlunni til beinlínis lagt undir æðsta dóm, er þá var í Danmörku.

Af því að konungarnir af Aldinborgar ætt höfðu næstum því ætíð aðsetur sitt í Danmörku, urðu Íslendingar, er vildu flytja mál sín fyrir konungi, jafnvel fyr en hjer var komið, optast að leita til Danmerkur, og tóku þannig samgöngur milli Íslands og Danmerkur að aukast og fjölga, og tilefni til þessa urðu smám saman fleiri og fleiri eins og nærri má geta við tilhögun þá, er nú var talin. Háskólinn í Kaupmannahöfn studdi nú einnig að því, eptir að Kristján konungur þriðji var búinn að koma honum aptur á fót, því þá tóku Íslendingar einnig að

---

[1]) Báðar tilskipanirnar standa hjá M. Ketilssyni og í *Lovsamling for Island* á sínum stöðum, þó er hin fyrri til færð 17. marz hjá M. Ketilssyni. Ástæðu fyrir þessari tilhögun tilgreina þær þessa: „að lögmennirnir á Íslandi dæmi ýmsa dóma milli manna þar, sem ekki sjeu allir rjettlátir, og þar eð lög Íslands segi, að engi megi rjúfa dómsúrskurð lögmanns nema konungur einn, verði þegnarnir opt fyrir rangindum, einkum fátækir menn, **er ekki hafi efni til að leita rjettar síns hjer í Danmerkur ríki hans.**“

leita sjer þar menntunar, og nokkrum árum eptir, að hinn almenni stúdentasjóður (*Communitet*) var stofnaður, skipaði Friðrek annar með konungsbrjefi 23. desember 1579 [1]), að fátækir Íslendingar, er kæmu til Kaupmannahafnar til að leita sjer lærdóms [2]), skyldu gánga fyrir öðrum til að fá fæði og uppheldi í stofnun þessari, og er konungsbrjef þetta hin fyrsta undirstaða hinna miklu einkarjettindi, sem Íslendingar enn hafa við háskólann, með veitingar á „komúníteti“ og „regensi“. Hið nýja fyrirkomulag á verzluninni studdi einnig að þessu. Banni því, er Noregskonúngar höfðu, skömmu eptir að landið gekk undir Noreg, lagt fyrir það, að útlendar þjóðir verzluðu á Íslandi, var haldið eins og reglu, en þrátt fyrir það höfðu útlendir verzlunarmenn frá Englandi og Hansakaupstöðunum nærri því alla verzlun á Íslandi í höndum sjer, og verzluðu þeir sumpart í lagaleysi og sumpart eptir sjerstökum konunglegum leyfisbrjefum. Þetta gekk nú þangað til Kristján konungur fjórði með einkaleyfisbrjefi 20. apríl 1602 fjekk í hendur borgurunum í þremur kaupstöðunum, Kaupmannahöfn, Málmey og Helsingjaeyri, að reka einir sjer verzlun á Íslandi um víst árabil, og var þessi einokunarverzlan á seinni tímum endurnýjuð á ýmsan hátt.[3])

---

[1]) *Engelstoft: Universitetsannaler* 1810, I., 188. bls., og *Lovsamling for Island*, 1. b. á sínum stað.

[2]) Kristján konungur fjórði skipaði jafnvel með konungsbrjefi 1. apríl 1618 (*Lovsamling for Island*), að byskuparnir á Íslandi skyldu á ári hverju senda til háskólans að minnsta kosti einn efnilegan mann úr hverjum skóla, er gæti tamið sjer þar bóklegar menntir, og orðið síðar til nota á landinu.

[3]) Sbr. um verzlunina á Íslandi einkum *Holbergs geistlige og verdslige Stat*, 3. útg. 366. bls. o. s. frv. Ritgjörð eptir Finn Magnússon í *Nordisk Tidsskrift for Oldkyndighed* II. 112.

Af hinu áður talda og öðrum fleiri skipunum konungs í lagasöfnunum má sjá það í tilliti til löggjafarvaldsins, að konungar gjörðu sem þeir ættu það einir. Á hinn bóginn virðist, að menn á Íslandi hafi reynt til, að minnsta kosti að nafninu til, að láta alþingi halda þeim rjetti að samþykkja ný lög, og var það gjört á þann hátt, að svo nefndur dómur var dæmdur, er staðfesti hin nýju lög. Slíkur dómur er t. a. m. til frá árinu 1508[1]); þar lýsa tólf menn því yfir, að þeir sjeu nefndir á alþingi af lögmanni til að rannsaka og dæma „um konungsbrjef það er nýlega er komið í land, og lýtur að rjettarbót Hakonar konungs um arf, auk annars, er í því stendur; því dæmdum vjer áður nefndir dómsmenn þetta konungsbrjef og öll atriði þess statt og stöðugt í alla staði.“ Hinn kunnugi útgefandi fer um þetta svo felldum orðum, „að menn reyndar sjái af þessum dómi og öðrum fleirum, að Íslendingar hafi tekið sjer slíkt vald, en að það sje einnig víst, að slíkt samþykki þeirra og dómar hafi síðar meir ekki verið annað en til málamyndar, og reikur einn, og að tilskipanir konungs hafi haft fullkomið lagagildi, jafnvel áður en einveldið komst á, hvort sem þeir samþykktust þær eða ekki.[2])“

Enn fremur hafði alþingið að vísu mikið löggjafarvald í landinu sjálfu, og finnast þess mörg dæmi í

---

bls., o. s. frv., *Lovsamling for Island* í yfirliti efnisins undir orðinu *Handel*.

[1]) Safn M. Ketilssonar I., 103. bls. o. s. frv.

[2]) Embættismannanefndin í Reykjavík 1838 áleit jafnvel: „að löggjafarvald alþingis hefði hætt á 13. öld, þegar Ísland var lagt undir Noreg, og að það síðan hafi einungis haft dómsvald, og einstöku sinnum hafi það haft mál til íhugunar, þangað til það hafi, eptir að einveldi komst á, ekki verið annað en illa lagaður yfirdómur“ *Ny Coll. Tid.* 1843, 216. bls.

*Lovsamling for Island*; en þegar um eitthvað mikilvægt var að gjöra, þótti þó við þurfa að leita staðfestingar konungs á slíkum samþykktum, t. a. m. staðfesting konungs 13. apríl 1565 á hinum svo nefnda Stóradómi 2. Júlí 1564 um lausaleiksbrot; en þess konar leyfi, að gefa sjálfum sjer lög, er einnig var almennt annarstaðar en á Íslandi, einkum hjer i Danmörku, er engi sönnun fyrir því, að landið hafi verið út af fyrir sig eins og sjerstakt ríki.

Viðvíkjandi nýjum sköttum þá var stundum krafizt sjerstakra skatta, og hefur það líklega venjulega gengið þannig til, að konungur ljet biðja og semja við Íslendinga til þess að fá sem mest með góðu [1]), og var sama aðferð opt höfð í Danmörku. Líka eru til konungsbrjef, er virðast að ganga að því vísu, að konungur hafi rjett til að leggja skatta á [2]).

Àð endingu má þess geta að stjórnin á þessu tímabili tók einnig smátt og smátt og bráðum næstum eingöngu að viðhafa dönsku í Íslands málefnum, svo að tilskipanir brjef og boðanir til Íslands var venjulega gjört á dönsku.

## III.

## Tímabilið frá því að erfðastjórn og einveldi komst á, þangað til ráðgjafarþingin voru sett.

10. gr. þegar að erfða- og einvaldsstjórnin komst á, var að mestu leyti fyrir löngu búið að ónýta hið

---

[1]) Sjá t. a. m. slíkt skattabrjef 1541 hjá M. Ketilssyni I., 233. bls.

[2]) Sjá t. a. m. slíkt brjef 1625; þar eru Íslendingar, er höfðu kvartað um, að þeir gætu ekki greitt skatt, er á þá var lagður til að fæða herliðið, af sjerstakri náð og mildi undan þegnir að greiða hann. M. Ketilsson II., 346. bls.

frjálslega samband, er Noregur og lönd þau, er með honum fylgðu, Ísland og Færeyjar, höfðu áður verið í við Danmörku; sbr. 26 bls. hjer að framan. Mörg atriði voru nú reyndar enn sundurleit í lögum og landstjórn beggja landanna, er voru leifar fyrri tímanna, er löndin voru að skilin, en þó var nú svo komið, að lönd þessi öll stöðu ekki einungis undir sama konungi, heldur var hið æðsta löggjafar-, dóms- og landstjórnarvald hið sama í þeim öllum; því að konungurinn og hið danska ríkisráð voru hinir æðstu framkvæmendur alls þessa valds sameiginlega fyrir öll löndin, og öll þessi lönd voru þannig bæði í tilliti til stjórnar innan ríkis og sambands við útlend ríki að álíta sem eina ríkisheild[1]). Það datt vissulega engum í hug, þegar stjórnarbreytingin varð 1660, að það skyldi slíta eða veikja hið verulega samband, er þannig var milli áður nefndra landa, að erfðarjettur konungs og hin nýja stjórnarbreyting einungis var innleidd í einn landshlutann, það er að skilja: sjálft konungsríkið Danmörku. Undir eins og búið var að sverja erfðakonunginum hollustu, ljet Friðrek konungur þriðji með opnu brjefi 16. nóvember 1660[2]) kunngjöra þegnum sínum í Noregi af öllum stjettum það „til vitundar“, eins og það, er sjálfsagt ætti nú einnig að gilda fyrir Noregs hönd, og verða menn hjer að minnast,

---

[1]) Það voru reyndar haldin sjerstök høfðingjaþing eða konungleg þómþing í Noregi, og voru það æðsti dómur í norskum málum, og Noregur hafði jústitskanselera út af fyrir sig, en það voru menn úr ríkisráðinu, er sálu rjettinn, og var konungur opt forseti, að minnsta kosti með nokkrum viðrum dómfyllendum, eins og einnig var haft í Danmörku, og kanselerinn var einn af ráðinu. Sjá *Slange* 48, 50. og 52. bls. Sbr. *Historisk Tidsskrift* I., 287, 301. og 248.—49. bls.; *Rosenvinge*: *Saml. af gl Domme* I., XII. bls., o. s. frv.

[2]) Stendur prentað í *juridisk Archiv* (eptir Chr. Krogh) I., 9. bls.

bæði að það var kveðið upp í ástæðunum fyrir ákvörðun þeirri, er áður er getið (bls. 26) í skuldbindingarskrá Kristjáns konungs þriðja, að Noregsveldi væri sameinað Danmerkur krónu um aldur og æfi[1]), og að menn enn mundu, að Noregur var erfðaríki[2]). Hið svo nefnda einvalds- og erfðastjórnarskjal 10. janúar 1661, er konungur ljet eðalborna menn, klerkdóminn og borgarastjettina skrifa undir í þrennu lagi, nefnir beinlínis, að erfðarjetturinn og hin nýja stjórnarlögun nái til beggja ríkjanna, Danmerkur og Noregs[3]). Sama árið ljet konungur kveðja saman fulltrúa allra hinna norsku stjetta í Kristjaníu, og ljet þá þar 7. ágúst bæði sverja konungserfðunum hollustueið og skrifa undir skuldbindingarskrá, sem, að hinum nauðsynlegu breytingum frá skildum, er öldungis samhljóða hinni dönsku skrá 10. janúar s. á.; því hún talar ekki um Noreg einan, heldur um bæði ríkin[4]). Þó að konungur annaðist þannig

---

[1]) Þess vegna var eptir það, á meðan að ríkið var kjörríki, enginn kosinn sjer í lagi til konungs í Danmörku, og til konungs í Noregi, heldur var kosið í einu konungur til Danmerkur og Noregs, og ríkisráð Danmerkur gjörði það venjulega, og þannig var það einmitt með sjálfa kosninguna eptir skjali því 1582 (*Dansk Magazin* II., 124. bls.), er *K. Ancher* skírskótar svo mjög til í *Vidensk. Selsk. Skr.* I., 40. bls. Sjá framvegis inngang til skuldbindingarbrjefa Friðreks annars, Kristjáns 4. og Friðreks þriðja, sömuleiðis *Forsikkringsbrev* 1608 í *Fyenske Aktstykker*, I., 13. bls., og tilskip. 9. jan. 1651 hos *Holberg*, III., 140. bls. o. s. frv.; sbr. *Historisk Tidsskrift* I., 310.—11. bls. og *Nyt hist. Tidsskr.* V., 356. bls. o. s. frv.

[2]) Sjá einkum *G. L. Baden: Afhandlinger i Fædrelandets Historie*, II., 63. bls. o. s. frv. Synir Kristjáns fjórða og Friðreks þriðja báru enn titilinn „Noregserfingi“, áður en einveldið komst á, *Baden* 75.—76. bls. og *Forsikkringsbrev* 1608 í *Fyenske Aktstykker* á áður nefndum stað.

[3]) *Suhm: Nye Samlinger* I., 254—55. bls.

[4]) Þetta norska skjal er prentað í *juridisk Archiv* I., 1. bls.

um að fá staðfesting Norðmanna, stendur þó ekki í sjálfu skuldbindingarskjalinu eða í öðrum skjölum, er snerta þenna gjörning[1]), neitt um, að það hafi eiginlega verið samið við Norðmenn fyrir fram um að taka boði konungs, heldur virðist eins og gengið sje að því vísu að konungur geti krafizt samþykkis þeirra.

Eptir að einvalds- og erfðastjórnin var viðurkennd af þjóðinni bæði í Danmörku og Íslandi, bjósst Friðrek konungur þriðji við að láta innbúa Íslands og Færeyja sverja sama hollustueið, því þau lönd voru almennt álitin, eins og áður er á vikið, að heyra til eða liggja undir Noreg[2]). það má þegar sjá á þessum samanburði við Færeyjar, hvað lítil rök verða leidd af því, að erfðakonnungum voru sjer í lagi svarðir hollustueiðar á Íslandi, í þá átt sem nefndarrálitið vildi, og þetta sjest enn betur af innihaldi skjala þeirra, er hjer að lúta.

það var enn síður en við Noreg sjálfan umtalsmál að fara fyrir fram að semja við þessar fjarlægu eyjar eða leita

---

o. s. frv., einnig á sínum stað í *Fogtmans Rescriptsamling*, en mjög illa þar frá því gengið.

1) Sjá *Rescr.* 18. desember 1660 og 7. marz 1661 hjá *Fogtman*, og *Instruction* 19. júlí 1661 í *jurid. Arch. l. c.*, II. bls.

2) Sjá enn fremur hvað Ísland snertir 1648 og 1649 ljensbrjef handa *Henrik Bjelke*: „Vort og Noregs krónu land og ljen Ísland", og brjef til landsbúa, er því fylgði: „þjer skuluð gjalda honum og greiða og engum öðrum hinn árlega skatt og skyldu, sem þjer eruð skyldir að gjalda og greiða Noregs krónu og Oss; *M. Ketilsson* IV., 4. bls., o. s. frv. Dómsmál frá Íslandi höfðu þó um langan tíma ekki gengið til hins konunglega lögþingis í Noregi heldur, til konungs og ríkisráðsins í Danmörku; sjá hjer að framan 27. bls., sbr. *M. Ketilsson* II., 24—25. bls.; og jeg hefi heldur hvergi getað fundið, að hirðstjórinn á Íslandi hefði staðið undir jörlunum, er þá voru í Noregi, heldur stóð hann eflaust beinlínis undir stjórninni í Danmörku.

samþykkis þeirra til stjórnbreytingarinnar; en það liggur í augum uppi, að það var álitið sjálfsagt, að það, sem allar stjettir í Danmörku og Noregi höfðu fallizt á, væri einnig beinlínis skuldbindandi fyrir þessi undirliggjandi lönd, og var sú aðalregla, eins og áður er sýnt, byggð á Jónsbókinni. Í sendibrjefi 24. marz 1662[1]) til landsmanna á Íslandi, segir konungur, að þeim muni að vísu þegar kunn stjórnarbreyting sú, er orðin var, en síðan segir hann: „Vjer höfum því álitið það rjett og ráðlegt að láta fulltrúa Vorn, er Vjer þar til setjum, taka jafnhátíðlega hinn sama hollustueið af alþýðu manna á Voru landi Íslandi á alþingi, er Öxarárþing nefnist, og höfum Vjer ákveðið til þessa 30. júlí yfirstandandi ár; og höfum Vjer í því skyni sent fulltrúa Vorn . . . . til þess að taka erfðahollustueiðinn fyrir Vora hönd af alþýðu manna á landinu á ákveðnum stað og tíma. Því er Vor mildilegasti vilji og skipun, að þjer háttið svo til . . . (hjer eru þeir taldir, er koma eiga á þing fyrir hönd landsmanna), að þjer getið vissulega komið þar saman á nefndum stað og tíma, til að sverja þar yðar erfðahollustueið . . . Því ber yður að vanrækjast ekki neitt af þessum boðum Vorum.“

Þegar svarinu var erfðahollustueiðurinn á Íslandi, er þó var ekki gjört fyr en 28. júlí 1662[2]) sökum þess að umboðsmaður konungs kom svo seint til landsins, var skrifað undir einvalds- og erfða-stjórnarskrá, sem var öldungis áþekk þeim, er gjörðar höfðu verið í Danmörku og í Noregi, er skráin nefnir þær þó ekki hverja fyrir sig heldur sem einn og hinn sama gjörning Eptir að þess

---

[1]) Hjá K. Ketilssyni og í *Lovsamling for Island* á sínum stöðum.

[2]) Sjá *M. Ketilsson* III. 87. bls., athugagrein.

er getið, hvað gjörzt hafi í Danmörku og Noregi, segir svo: „og þess vegna þegnsamlegast álitið, að það sje ekki nóg, að vjer glaðir og fagnandi vitum þessar skrár hafi verið boðnar og gefnar Hans konunglegu Hátign á þenna hátt, heldur höfum jafnvel haldið það hina æðstu skyldu vora að láta hið sama í allri auðmýkt í tje. Því styrkjum vjer og staðfestum allir og sjerhverjir, ásamt öðrum trúum þegnum Hans Hátignar, með þessu opna brjefi voru, að Hans hæstnefnda konunglega Hátign sje einvalds og erfðakonungur, erfðarjett hans til Íslands og eyja þeirra, er þar til heyra, öll jura majestatis og konungsrjett, sem allar stjettir í Danmerkur og Noregs ríkjum hafa í áður nefndum gjörning gefið og í hendur selt Hans konunglegu Hátign."

Meira er Ísland ekki nefnt sjer í lagi; en í því, sem eptir fylgir, þar sem, eins og í hinum skránum, eru talin nokkur aðalatriði, er taka skyldi inn í tilskipun þá, er konungi var sett í sjálfs vald að gjöra, er einungis talað um Noreg og Danmörku á þann hátt, að eflaust er svo til ætlað, að það, sem ákveðið var um þau ríki, væri um leið ákveðið fyrir Íslands hönd, er væri talið þar með.

Það má sjá af þessu, að allar þessar einvaldsskrár fyrir Danmörku (í þrennu lagi), Noreg, Ísland og Færeyjar voru í vissum skilningi sjerstakar skrár, að því leyti þær voru gjörðar á ýmsum tíma á ýmsum stöðum og af ýmsum mönnum, en í rauninni voru það þó ekki sjerstakar skrár heldur eiginlega upptekningar af hinni sömu skrá, eða hin sama skrá í mörgu lagi.

---

[5]) Stendur hjá K. Ketilssyni á sama stað, og eptir frumritinu í *Lovsamling for Island.*

Konungalögin, er gjörð voru samkvæmt þessum skrám kannast heldur ekki grand við neitt sjerstakt íslenzkt ríki. Ísland er ekki einu sinni nefnt á nafn í þeim. Venjulega er talað um, að lögin nái yfir Danmörku og Noreg, sjá innganginn og 1., 2. og 27. grein, eða að mesta kosti er nefnt Danmörk, Noregur með skattlöndum, er þar til heyra, löndum og eyjum, sjá 14. og 19. grein, og verður þá Ísland að vera talið með, þegar svo er nefnt. þegar nefndarálitið getur þess, að konungalögin hafi ekki verið þinglesin þar í landi, þá er það auðvitað, eptir því sem á öllu stóð, að slíkt hefur ekkert að þýða viðvíkjandi gildi laganna þar, og það því síður, þegar þau í rauninni hafa gilt þar í landi 200 ár, svo að allir hafa viðurkennt þau. Án efa hafa þau heldur ekki verið þinglesin í Danmörku eða Noregi.

11. gr. það liggur í augum uppi, að þó að eitthvað af hinum upphaflega samningi við Noreg hefði enn staðið til þessa tíma, yrði það þó að hafa fallið burt, þegar stjórnarbreytingin varð 1660, því þá fengu öll lög og rjettur í ríkinu aðra undirstöðu. Eptir að Ísland, þegar þetta gjörðist, var öldungis reglulega lagt undir sama stjónarvald sem Danmörk og Noregur, og viðurkennt sem ósundurskillegur hluti hins danska og norska konungsveldis, er það alkunnugt hverjum þeim, er þekkir nokkurn veginn löggjöf og stjórnaraðferð á hinum seinni tíma, að stjórnin hefur að vísu í mörgum greinum farið með Ísland eins og sjerstakt skattland, en aldregi veitt landinu neina slíka sjálfstjórn, sem hin íslenzka nefnd virðist að álíta. Ísland hefur ekki einungis staðið undir sama konungsvaldi og Danmörk og Noregur, heldur einnig undir sömu stjórnarráðum og sama hæstarjetti, og þetta er engan veginn til orðið á þann hátt og segir í nefndarálitinu, að slengt sje

saman hinu umboðslega stjórnarvaldi í löndunum, heldur var það bein afleiðing af hinni nýju stjórnarskipun, og ekki annað en það, sem þegar að miklu leyti var komið á. Hvað löggjöfina snertir, er það aðalatriðið, að Ísland lá öldungis undir hið sama löggjafarvald og hinir hlutar ríkisins, en hitt atriðið, að Ísland hjelt að nokkru leyti hinum eldri lögum sínum, og fjekk seinna ýmisleg sjerstök lög, hefur litla þýðingu viðvíkjandi stöðu Íslands í ríkinu. Það er enn fremur alkunnugt, að dönsk og norsk lög komust smám saman á í landinu, og leiddi það eðlilega af því, að þau lög tóku framförum jafnframt menntun hins nýja tíma, en hin gömlu íslenzku lög urðu smátt og smátt óhafandi. Það hefur að vísu stundum borið við, eins og segir í nefndarálitinu, að lögin hafa talað um Ísland eins og sjerstakt land jafnhliða Danmörku og Noregi, t. a. m. tilskipun 31. maí 1805, en þetta var engan veginn hið venjulega. Það varð líka að álíta að mörg almenn lög væru einnig gefin Íslandi, þó landið sje ekki nefnt sjerstaklega í þeim, og það var fyrst girt fyrir efablendni þá, sem af þessu leiddi, með konungsúrskurði 6. júní 1821[1]). Þess má sjerstaklega geta, að hin einu lög á þessu tímabili auk konungalaganna, sem eru eiginlega stjórnarlög (*politisk*), lögin um rjett innfæddra manna 15. janúar 1776, geta einungis Dana, Norðmanna og Holtsetulandsmanna, og þar eð lög þessi ná nú eflaust einnig til Íslands, sbr. tilskipun 17. nóvember 1786, 8. gr., hljóta í þessari þrískiptingu Íslendingar að vera taldir annaðhvort með Dönum eða Norðmönnum.

Þegar að Svíar fengu Noregs konungsríki í friðar-

---

[1]) Sbr. *Örsted: Haandbog* I. 38. bls. o. s. frv. og VI., 427. bls., o. s. frv.; *Krieger: Grundlag*, 132. bls. o. s. frv.

samninginum 14. janúar 1814, 4. gr., var Ísland beinlínis áskilið hinni dönsku krónu, en ekki er það þó ljóst af orðum sáttmálans, hvort álitið væri að landið heyrði þá til Noregi eða ekki[1]). Þessi stórum merkilegi viðburður hafði að öðru leyti engi beinlínis áhrif á hið almenna rjettarástand Íslands því dómgæzla og stjórnarvald í landinu var þá fyrir löngu beinlínis lagt undir hæstarjett og hin æðstu stjórnarráð í Danmørku.

## IV.

## Hið seinna og seinasta tímabil.

12. gr. Það er reyndar ekkert beinlínis ranghermt í frásögu hins íslenzka nefndarálits um stofnun ráðgjafarþinganna 1831, en lýsir þó æði skakkt öllu því, er í rauninni gjörðist. Hið sanna er, að tilskipunin 28. maí 1831 skoðar Ísland og fer með það eins og einn hluta „Danmerkur". Titill hennar er: „Tilskipun um stofnun ráðgjafarþinga í Danmörku;" í ástæðunum segir konungur, að hann ætli, sjer að stofnsetja ráðgjafarþing, og síðan ákveður 1. gr.: „Í Danmörku skulu vera tvö ráðgjafarþing, annað fyrir Sjálands, Fjóns og Lálands og Fálstur

---

[1]) Danmerkur konungur afsalar sjer . . . . allan rjett og heimildir er hann hefur til Noregsríkis, nefnilega þeirra byskupadæma og stipta, er hjer eru talin: *Christjansand*, *Bergen*, *Aggerhuus* og *Throndhjem* ásamt Norðurlöndunum og Finnmörku allt að landamærum Rússaveldis. Þessi byskupsdæmi, stipti og hjeruð, sem eru allt konungsríkið Noregur, ásamt öllum mönnum, borgum, höfnum, víggirtum stöðum, bæjum og eyjum við allar strendur þessa konungsríkis, og aðrar eignir, er þar til liggja — að frá töldu Grænlandi, Færenjum og Íslandi — skulu framvegis heyra til Svíakonungi, o. s. frv.

stipti, sem og fyrir Ísland, og annað fyrir öll fjögur stiptin í Norður-Jótlandi." þegar að tilskipunin 15. maí 1834 skipaði nákvæmar fyrir um ráðgjafarþingin, var það enn ekki komið í kring, hvernig á hentugan hátt skyldi kjósa fulltrúa fyrir Íslands hönd, og bauð því tilskipunin til bráðabyrgða, þangað til slíkt yrði gjört, að konungur skyldi, nefna tvo menn, er væru kunungir högum Íslands, til að eiga setu á þinginu. þing Eydana var nú þannig einnig fyrir Íslands hönd með fulltrúum þeim, er þannig voru kosnir, og voru lögð fyrir það öldungis sjerstök lög handa Íslandi[1]; en Kristján konungur áttundi ákvarðaði það með úrskurði sínum 20. maí 1840, að það skyldi rannsaka, hvort ekki væri hentast að sett yrði sjerstakt ráðgjafarþing á Íslandi[2]), og þetta var einnig gjört með tilskipun 8. marz 1843, er stofnsetti þetta þing, og kallaði það alþingi, og voru því fengin í hendur þau störf, er þingið í Hróarskeldu hafði áður haft, viðvíkjandi lögum og öðrum aðgjörðum, er snertu Ísland sjálft, og hættu þá um leið fulltrúar að sitja á þinginu í Hróarskeldu fyrir Íslands hönd[3]). Sambandið milli alþingis og ráðgjafarþinganna í Danmörku varð því það, að almenn lög og tilskipanir, er gefa skyldi fyrir Danmörku, skyldu ekki lögð fyrir alþingið áður en þau komu út, heldur skyldi það gjört þá fyrst, þegar í ráði væri að lögleiða þau á Íslandi. Lög þau og stjórnaraðgjörðir, sem að sönnu einkum snertu Ísland, en sem líka voru áríðandi fyrir Danmörku, skyldi leggja bæði fyrir alþingi og hin dönsku ráðgjafarþing; svo að einungis

---

[1]) Sjá t. a. m. tilskip. 3. febrúar og 9. marz 1836, 24. janúar 1838, o. a. fl.

[2]) Sjá meira um þetta í *Coll. Tid.* 1840, 617. bls., o. s. frv.

[3]) Sbr. betur um þetta umræðurnar á þinginu í Hróarskeldu 1842. og *Ny Coll. Tid.* fyrir 1843, 213. bls., o. s. frv.

þær ákvarðanir, sem snertu Ísland eingöngu, skyldi ekki leggja nema fyrir alþingið[1]).

Í hinu sameiginlega ráðgjafarþingi, er eptir konungsbrjefi 28. janúar1 848, var í ráði að stofna, skyldi Ísland ekki eiga neina hlutdeild, en þessi stofnun átti heldur ekki að breyta neinu í fyrirkomulagi ráðgjafarþinganna hvorki á Íslandi eða konungsríkinu.

13. gr. Með þessu hefi jeg nú lokið þeim skýrslum og athugasemdum, er jeg innan takmarka þeirra, er jeg setti þessari ritgjörð, ætlaði að gjöra um hið löglega samband Íslands við ríkið þangað til í byrjun ársins 1848, og hefi jeg einkum haft tillit til hins íslenzka nefndaralits 1851. Jeg skal að endingu drepa stuttlega á það, hvernig samband þetta er nú að skilja eptir mínu áliti.

Eptir sambandi því, er Ísland komst í við ríkið, eptir konungalögunum, einkum 19. gr. þeirra, og eins og það hefur myndast í hinni seinni löggjöf, og samkvæmt því, sem alkunnugt er að til var ætlazt, þegar grundvallarlögin 5. júni 1849 voru samin, þá ná þessi lög einnig til Íslands: Grundvallarlögin 5. júní 1849 eru einnig gefin handa Íslandi. Það er einungis hinu fulla lagagildi þeirra þar í landi, sem, samkvæmt konungsbrjefi 23. september 1848, og 18. og 37. grein kosningarlaganna, er skotið á frest, þangað til gjörðar verða þær nákvæmari ákvarðanir, er virðast kynnu nauðsynlegar sökum hins sjerstaklega ástands Íslands. Þegar grundvallarlögin ná til Íslands á þann hátt er nú var sagt, liggur þar í, að kostur er á að gjöra skipun á þessu sambandi með venjulega lagaboði, án þess

---

[1]) Sbr. *Ny Coll. Tid.* 1843, 241. bls.

að við þurfi að hafa ákvarðanirnar í 100. grein grundvallarlaganna[1]).

Undirbúningur sá, er gjörður var, undir eins eptir að grundvallarlögin voru gefin, til að koma skipulagi á þetta, hafði, eins og áður er sagt, engan árangur, og öllu málinu varð að skjóta á frest fyrst um sinn. Þar á móti stóð það í hinni konunglegu auglýsingu 12. maí 1852 (sbr. að framan bls. 4.), „að það sje vilji konungs, að hið íslenzka alþingi skuli á lögskipaðan hátt halda fram sýslu sinni, með þeim takmörkum, sem því eru sett að lögum, þangað til sá tími komi, að konungi þyki ráð að ákveða aðrar reglur um hlutdeild Íslands í stjórnarbót ríkisins, sem þó ekki skuli verða fyr, en leitað hafi verið álits alþingis um það, samkvæmt því sem heitið er í tilskipun 8. marz 1843, 79. gr.“ Alþingið hefur reyndar seinna á alþingisfundinum 1853 sent bænarskrá um, að skipun verði gjörð á þessu máli[2]), en hin konunglega auglýsing 7. júní 1855 til alþingis, sem haldið er í ár, um árangur af bænarskrám þingsins 1853, segir: „að konungi hafi ekki litizt, eptir því sem nú standi á, að bera undir álit alþingis, út af því sem farið er fram á í bænarskrá þess, frumvarp til laga um stöðu Íslands í ríkinu.“

Af því, er talið er hjer að framan, leiðir, að löggjafarvaldið í tilliti til þeirra laga, sem alþingi hafði áður einungis til meðferðar — það er að skilja þau löggjafarmálefni, sem einungis snerta Ísland, eða einungis eru um að veita almennum lögum lagagildi þar í landi, sbr. 39—40. bls. hjer að framan — er á hinum seinni árum enn í

---

[1]) Sbr. *Departementstidenden* 1841, 720—30. bls.

[2]) Umræðurngr um þetta eru í Tíðindum frá alþingi Íslendinga 1853, og einkum bænarskráin 1044 bls.

höndum konungs, eins og áður var, með ráðaneyti alþingis; sbr. auglýsingarnar til alþingis 23. maí 1853 og 7. jaúúar 1855.

Hvað þar á móti snertir hinar aðrar ákvarðanir, er reyndar snerta Ísland beinlínis eða óbeinlínis, en sem eptir eðli sínu heyra undir löggjafarvald konungsríkisins, þ. e. konung og ríkisþingið, þá gat löggjafarvald þetta hvorki takmarkast eð horfið, þó að það hafi enn ekki verið unnt að koma þeirri skipun á Íslands málefni, að fulltrúar fyrir þetta land gætu setið á ríkisþinginu. Þannig hefur konungur og ríkisþingið á venjulegan hátt gefið lög um siglingar og verzlun á Íslandi 15. apríl 1854, eptir að alþingi fyrst var þó gefinn kostur á að segja álit sitt um málið. Þessu er eins háttað um gjöld og tekjur fyrir Íslands hönd, er heyra undir fjárstjórn konungsríkisins, og er það því árlega ákveðið í fjárlögunum; sjá t. a. m. seinustu fjárlögin 28. marz 14. gr. og 29. gr. B. Ríkiserfðalögin 31. júlí 1853, er gefin voru með samþykki ríkisþingsins, ná einnig til Íslands, og hafa sama lagagildi á Íslandi og annarstaðar í konungsríkinu, þó að Íslendingar hafi engan hlut átt í samningu þeirra.

Í tilliti til hinnar æðstu landstjórnar er Ísland lagt undir sömu ráðherrastjórn og konungsríkið. Þessu er nú með konungsúrskurði 10. nóvember 1848 nákvæmar skipað þannig, að gjörð er almenn stjórnardeild fyrir íslenzk og fleiri málefni, með forstöðmanni, er flýtur málin, sem heyra undir stjórnardeildina, hver fyrir þeim ráðgjafa, er úr málunun á að skera, einkum innanríksráðgjafanum, dómsmálastjóranum og ráðgjafanum fyrir kirkju og kennslumálefnum, og stendur að öðru leyti í sama sambandi við hina ýmsu ráðgjafa, eins og aðrir forstöðumenn stjórnardeildanna hver til síns ráðgjafa. Í dómgæzlunni er, eins og

eðlilegt er, engin breyting gjörð á skipulagi því, sem fyrir löngu er inn leitt, að Ísland liggur undir hæstarjett konungsríkisins.

Þegar Ísland liggur þannig undir valdstjórn og andlega stjórn konungsríkisins, mun einnig grundvallarlagaákvördunin 29. ágúst 1855, 3. gr. einnig með tímanum ná til þess.

Breytingar þær, er þessi grundvallarlagaákvörðun, sem nú er búin að fá lagagildi með auglýsingu 2. október 1855, og stjórnarskipunarlög þau um sameiginleg málefni ríkisins, sem komu út sama dag, gjöra, snerta einnig Ísland, að svo miklu leyti sem grundvallarlögunum, sem einnig eru gefin Íslandi, er þar breytt. Ályktanir ríkisráðsins í sameiginlegum málefnum verða einnig skuldbindandi fyrir Ísland, að því leyti sem þær geta haft áhrif á þetta land, og sjerstök hluttekning af Íslands hálfu með beinum kosningum í að að hafa fulltrúa fyrir konungsríkið, getur einungis fengizt á þann hátt, sem ákveðinn er í 57. gr. stjórnarskipunarlaganna.

---

